Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

24. tölublað | Þriðjudagur 19.6.1979 | 8. árgangur | Verð kr. 150



# Ríkisstjórnin vinnur með atvinnurekendum

Það vantaði ekki stóru orðin þegar núverandi ríkisstjórn var mynduð og þegar flokkarnir sem að henni standa voru að gera hosur sínar grænar fyrir kjósendum.

Þetta átti að vera vinstristjórn, samningar áttu að vera í gildi og verðbólgan átti nánast að hverfa án þess að gengið yrði á launin enda voru allir á einu máli um að laun væru ekki verðbólguvaldur.

Þessa dagana er ríkisstjórnin heins vegar að undirbúa bráðabirgðalög til að banna verkfall yfirmanna á farskipum.

Ráðherrarnir hafa fengið leyfi frá þingflokkum sínum til að standa að slíkri lagasetningu.

Það vekur furðu hvað það var ráðherrum Alþýðubandalagsins auðsótt mál að fá leyfi frá sínum þingflokki. Alþýðubandalagið hefur með þessu endanlega sýnt fram á að það ber alls ekki hagsmuni launþega fyrir brjósti heldur gengur það erinda atvinnurekenda í einu og öllu.

**Eftir þessu biðu atvinnurekendur.**

Það hefur vakið talsverða furðu hvað atvinnurekendur beittu mikilli og ósvífinni hörku í þessu verkfalli og verkfalli mjólkufræðinga.

Skýringin er ofur einföld. Atvinnurekendur voru með aðgerðum sínum að neyða ríkisstjórnina til að setja bráðabirgðalögin sem nú eru á leiðinni þegar þetta er skrifað.

Þeir vita það af reynslu þessarar ríkisstjórnar að hún tekur alltaf mark á kröfum atvinnurekenda.

Ríkisstjórnin hefur stutt atvinnurekendur í stífni þeirra með því að hóta bráðabirgðalögum. Atvinnurekendur hafa aðeins beðið eftir þessum aðgerðum ríkisstjórnarinnar og neitað að ræða deiluna af nokkurri alvöru við farmenn.

**Hlýða farmenn?**

Það er aðeins ein aðferð til sem getur kennt atvinnurekendum og ríkisstjórn þeirra verðuga lexíu, það er að farmenn hlýði lögunum í engu og láti ekki kúga sig til hlýðni.

Forystumenn farmanna hafa lýst því yfir að þeir muni hafa verkfallsbann að engu. Nú er komið að því að þeir fái að sýna það í verki.

## Enn um Andóf '79

SJÁ SÍÐU 2

## 'A morgun er nýr dagur

SJÁ BAKSÍÐU

# Nicaragua: Somosa styðst við USA

Átökin í Mið-Ameríkuríkinu Nicaragua undanfarið eru glöggt dæmi þess óréttlætis þegar minnihluti þjóðar drottnar yfir meirihlutanum og í þessu tilviki með ofbeldi. Andstaða mikils meirihluta nigaraguönsku þjóðarinnar gegn stjórn Somosa forseta er ljós og fjöldinn skipar sér í lið með Sandinistahreyfingunni. Fólk almennt styður hreyfinguna leynt og ljóst t.d. með þátttöku í allsherjarverkfallinu sem hún boðaði og með þátttöku í sjálfum átökunum.

Sandinistahreyfingin ætlar sér greinilega ekki að brenna sig á sömu mistökunum nú og

framhald á síðu 3



Sandínistar njóta stuðnings alþýðu Nicaragua, en hún býr við mikla fátækt og ógnarstjórn Somosa.



Ríkisstjórnin hefur borið "gæfu" til að setja bráðabirgðalög er banna verkfall farmanna. Spurningin er bara hvers gæfan er?

# Heyrir verkfall undir refsilög?

Bráðabirgðalög ríkisstjórnarinnar og viðbrögð vinnuveitendasambandsins við yfirvinnubanni farmanna á Faxaflóasvæðinu, renna stoðum undir þanngrun að verkföll séu farin að heyra undir refsilöggjöfina. Á meðan forysta verkalýðssamtakanna klúkir utangarðs og lætur lítið í sér heyra, stritar vinstri-stjórnin við að rífa niður þau lýðréttindi sem alþýða þessa lands hefur aflað sér með harðvítugri baráttu um áratuga skeið. Það heyrir til sjálfsögðustu lýðréttinda í heimi samtímans, að verkfallsrétturinn sé virtur. Verstu fasistar samtímans, á borð við Pinochet í Chile og Franco sálugan á Spáni börðu niður verkalýðsfélögin. Í blóði og lögbundu ótakmarkaðan rétt atvinnurekenda til að skammta verkafólki kaup. Ríkisstjórn Ólafssonar og Alþýðubandalagsforkólfanna virðist ætla að draga dám af fordæmi þessara alþýðufénda, alla vega hvað varðar lagasetningarnar. Það sem skilur helst á með þeim er að vinstri-stjórnin þorir ekki að banna verkalýðshreyfinguna, enda getur hún teymt forystu hennar eins og vankatarf í nasahring. Verkafólk má ekki horfa aðgerðarlaust upp á þessa aðför gegn lýðréttindum sínum, hún má ekki láta rjúfa skarð í varnarmúra sína því þá verða þeir fljótlega rifnir til grunna af auðvaldinu og handbendum þess. Félögin verða að taka virkan þátt í baráttunni gegn atlögum atvinnurekenda og ríkisstjórnar þeirra.

Og félögin verða ekki virk án þátttöku hins almenna félagsmanns. Sækjum fundi félaganna krefjumst þess að fundir verði haldnir í félögunum og sköpum samstöðu og baráttuanda, til að mæta árásunum. Nú ríður á að félögin standi sameinuð og að barátan verði lögð til grundvallar öllum aðgerðum þeirra.

LEIÐARI

# Stöndum vörð um verkfallsréttinn

Árásir á eina löglega vopn íslensks launafólks í kjarabaráttu þess, verkfallsréttinn, dynja nú yfir úr öllum mögulegum áttum. Gerðardómur skal á farmenn, fasískur áróður veður uppi í sjónvarpinu, verkbönnum er hótað og þannig má lengi telja. Ráðist er beint á verkalýðshreyfinguna og launafólk yfirleitt og það sakað um að vera aðal orsök verðbólgunnar og yfirleitt allrar þeirrar ringulreiðar í efnahagsmálum sem hér geisar. Þá er reynt að sundra samstöðu alþýðunnar í landinu og einum hópnum att gegn öðrum svo að atvinnurekendur fái sem frjálsastar hendur til að athafna sig að vild og stjórna landinu að eigin geðþótta. Gegn þessu og öðrum álíka vinnubrögðum verður allt launafólk í landinu að snúast og standa saman til að verja hendur sínar.

Tökum til dæmis farmannaverkfallið. Það er næstum því sama hvar er gripið niður, alls staðar er talað um hina vondu farmenn sem eru að heimta hærra kaup, eins og þeir hafi ekki nóg fyrir og það sé allt þeim að kenna hvernig staðan er í landinu nú. Könnumst við ekki við þetta stef? Jú, þetta er gamla sagan í nýjum búningi. Það hefði komið í sama stað niður ef um hefði verið að ræða verkfall innan ASÍ. Við hefðum fengið sömu söguna með öðrum orðum eða: Þið eigið ekki að fara fram á hlut sem ekki er til skiptana eða þið stefnið þjóðarbúinu í voða o.s. frv. Og við skulum athuga það að jafn miklar líkur eru á því að ráðist hefði verið með
eru á því að ráðist hefði verið með sama hætti á verkfallsréttinn í því tilfelli. Með því að gleypa við áróðri íhaldsins erum við þannig að veikja okkar eig eigin aðstöðu og gefa atvinnurekendum færi á að leika sama leikinn aftur og aftur.

Þeir sem hlustuðu á ummæli Sigurðar Líndal í sjónvarpinu þriðjudaginn 12 júní sl. skilja hvað hér er verið að fara því í hans áróðri komu fram leyndustu óskir allra íhaldsmanna, nefnilega afnám verkfalla og einræði atvinnurekenda um kaup og kjör verkalýðsins. Í stuttu máli, grímulaust afturhald og einræði yfirstéttarinnar. Þessar hugsjónir lagaprófessorsins eru svo sem ekki nýjar af nálinni, menn þekkja þær frá fyrri hörmungartímum og einnig eru þær að skjóta upp kollinum víða í hinum svokallaða frjálsa vestræna heimi.

Verkafólk. Ef við ætlum ekki að láta hneppa okkur í fjötra einræðisins megum við ekki veikja samstöðu okkar á einn né annan hátt og hafa það í huga að verið er að ráðast á eina vopn okkar allra.

Stöndum vörð um verkfallsréttinn.

# Hver á þessa ríkisstjórn?

Með setningu bráðabirgðalaganna hefur ríkisstjórnin sýnt sitt rétta andlit. Hún hefur unnið ötullega að því að lama samtakamátt launþega til að hægt sé að auka gróða auðherranna.

Allar beiðnir um verðhækkanir á vörum hafa náð fram að ganga í tíð þessarar ríkisstjórnar en jafnframt hefur hún sett sig á móti öllum kaupkröfum launþega.

Það er því ekki að undra þótt atvinnurekendur hafi sýnt hörku í farmannadeilunni þegar þeir áttu slíkan bakhjarl sem ríkisstjórnina. Og ekki nóg með það. Ýmsir verkalýðsforingjar létu sig hafa það að ganga í grátkór atvinnurekenda og syngja sönginn um bann við verkfallinu. Þess verður heldur ekki langt að bíða að skipafélögin fái umbeðna 40-50% hækkun á farmgjöldum, en sú beiðni er þegar fram komin.

Það er full ástæða til að styðja farmenn í áframhaldandi baráttu þeirra. Þeir hafa orðið að beygja sig fyrir ofbeldi og lagasetningu ríkisstjórnar auðherranna, nú ríður á að verkalýðssamtökin styðji rétt þeirra til að setja yfirvinnubann á Faxaflóasvæðið. Launþegar verða að leggja til atlögu við þessa ríkisstjórn.

Launþegar eiga ekkert í þessari ríkisstjórn. Hún er eign atvinnurekenda.

# Enn um Andóf '79

Fulltrúar Andófs '79 gengu á fund þingfulltrúa BSRB á þingi samtakanna fyrir skömmu. Tilefnið var að gera lítilsháttar grein fyrir Andófinu og afhenda hagnaðinn af andófsstarfinu í verkfallssjóð BSRB.

Það kostaði talsvert stapp við forseta þingsins að fá leyfi til að ávarpa þingið og afhenda þar með peningana. Eftir nokkrar umræður og fundi þingforseta í bakherbergi varð þó úr að fulltrúi Andófs fékk leyfi til að ávarpa þingheim í fundarhléi.

Fulltrúinn skýrði í stuttu máli frá starfi Andófs og afhenti síðan rúmlega 105 þúsund krónur í verkfallssjóðinn en það var hagnaðurinn ag starfi Andófs. Þessi hagnaður er til kominn af því að allt starf Andófs var unnið í sjálfboðavinnu gagnstætt forystu BSRB sem hafði launaða agenta sem þeyttust um landið þvert og endilangt til að "kynna" samkomulagið.

Þetta sýnir okkur svart á hvítu að Andóf var alls ekki klofningsafl í röðum opinberra starfsmanna eins og sumir forystumanna BSRB vildu vera láta heldur var markmið Andófs að styrkja samtök opinberra starfsmanna og koma í veg fyrir samþykkt samkomulagsins, jafnframt því að berjast gegn óheilbrigðum vinnubrögðum forystumanna BSRB.

Hins vegar bendir margt til þess að litlar líkur séu til þess að forysta BSRB hafi lært af reynslunni. Starfsaðferðir hennar hafa lítið sem ekkert breyst.

Kristján Thorlacius sagði eftir þing BSRB að ekkert hefði verið rætt um allsherjaratkvæðagreiðsluna, samkomulagið eða vinnubrögð forystunnar.

Það er að vísu rétt hjá formanninum að lítið var rætt um þessi mál á þinginu ef undan er skilið ávarp fulltrúa Andófs.

En það kemur líka engum á óvart sem veit hvaða undirbúningur lá bak við val fulltrúa á þetta þing. Þeir sem kynntust því hve mikil áhersla var á það lögð af meðreiðarsveinum formannsins að koma í veg fyrir að andófsmenn kæmust á þingið geta ekki tekið mikið mark á orðum hans.

Það er hægt að nefna dæmi um það hvernig forystumaður BSRB beitti áhrifum og aðstöðu til að útiloka andófsmenn frá þátttöku í BSRB þingi vegna þess eins að þeir hefðu tekið þátt í Andófinu. Þessar umræður og þetta makk kom hinsvegar aldrei upp á yfirborðið heldur fór það fram á lokuðum fundum.

Það er einmitt gegn þessum starfsaðferðum sem Andófið beitti sér.

# Aðalfundur

## Leigjendasamtakanna

Aðalfundur leigjendasamtakanna var haldinn 16. júní s.l. Þó fundurinn væri fremur fámennur ríkti mikill baráttuandi á fundinum. Kosin var ný stjórn en í henni eiga sæti 14 manns, eða 7 í aðalstjórn eb 7 í varastjórn. Flestir meðlimir fráfarandi stjórnar voru endurkjörnir, þar á meðal formaður samtakanna, Jón frá Pálmholti.

Lög félagsins voru endurskoðuð í ljósi þeirrar reynslu sem fengist hefur á fyrsta starfsári félagsins, og voru gerðar á þeim smávægilegar breytingar.

Margar ályktanir voru gerðar á fundinum. Í þeim var m.a. fagnað þeim áfanga sem náðist með hinum nýju lögum um húsaleigusamninga. Þó var bent á að ýmislegt vantar til þess að mörgum lágmarksatriðum sé fullnægt.

Var bent á að nauðsynlegt er að hið opinbera byggi meira af leiguhúsnæði og að hluti af verkamannabústöðunum ætti að vera leiguhúsnæði.

Til þess að gera erfiðar fyrir þá sem vilja brjóta hin nýju lög á bak aftur, var bent á að leiga ætti að vera borguð fyrir milligöngu opinberra aðila og að óheimilt ætti að vera fyrir húseigendur að láta húsnæði standa autt. Í sambandi við síðast talda atriðið var einnig bent á að húsnæði er byggt fyrir hagstæð lán úr opinberum sjóðum og því að hluta almenningseign.

# Fær ekki þinglýst

## Byggingarfyrirtækið er komið á hausinn.

Eins og allir vita er Breiðholt h/f komið á hausinn og þarf því að gera upp skuldir þess. Skal það og gert án tillits til þess á hverjum það bitnar þó að það séu utanaðkomandi aðilar.

Maður nokkur keypti nýlega íbúð í Breiðholtinu sem fyrirtækið hafði byggt. Eins og lög g gera ráð fyrir fór hann fram á þinglýsingu eignarinnar, en svo brá við að það fékkst ekki. Það á sem sé að taka íbúðina af honum upp í skuldir Breiholts h/f. Ekki stendur til að maðurinn fái bætur fyrir, þannig að hann situr eftir slyppur og snauður og tapar íbúðinni og öllu því fé sem hann hefur lagt í hana. Þetta er aðeins lítið dæmi um siðleysið sem hér ríkir.

Stéttabaráttan hvetur fólk til að láta vita af því ef það sætir svona kjörum vegna máls sem það á alls enga sök á.



... í stuttu máli

STJÓRN POL POTS ER HIN EINA RÉTTA STJÓRN Í KAMPÚTSEU.

Kampútsea er eitt ríki og leppstjórn víetnama hefur engan rétt til að koma fram út á við sem fulltrúi landsins, var haft eftir Ieng Sary varaforsætisráðherra stjórnar Pol Pots í viðtali við stjórnarblað á Sri Lanka.

Varaforsætisráðherrann sagði einnig að meirihluti ríkja heims og hreyfing óháðra ríkja viðurkenndi stjórn Pol Pots sem hina einu löglegu stjórn Kampútseu.

Hann fordæmdi innrás víetnama í landið og sagði að víetnamar hefðu vonast eftir skjótum sigri, innan mánaðar frá innrásinni, en nú hefður bardagar staðið yfir í fjóra mánuði og regntíminn væri fram undan og gerði víetnömum erfiðara fyrir. Um 150.000 víetnamskir hermenn eru nú í landinu.

Ieng Sary sagði að skæruliðastríð færi nú fram um allt landið.

AFTÖKUR Í ÍRAN.

Í byrjun júní fóru fram aftökur sex manna í Teheran í Íran.

Í sjálfu sér telst það varla til tíðinda svo miklar hafa aftökur stuðningsmanna keisarans verið eftir að trúarleiðtogarnir komust til valda í landinu.

Það sem gerir þessar aftökur í frásögur færandi er að hinum líflátnu var ekki gefið að sök að hafa verið stuðningsmenn keisarans. Þetta eru þannig fyrstu pólitísku réttarhöldin sem ekki eru tengd glæpum sem framdir voru í tíð keisarans.

Útvarp stjórnarinnar í Teheran sagði að glæpir þessara manna hefðu verið afbrot gegn byltingunni. Jafnframt var tilkynnt að fjölskyldum hinna líflátnu manna yrði tryggður lífeyrir, frá 400 til 550 dollurum á mánuði.

Þetta bendir til þess að trúarleiðtogarnir séu að snúa spjótum sínum að andstæðingum sínum innan andspyrnuhreyfingarinnar gegn keisaranum til að tryggja sín eigin völd.

Ljóst er allavega að ekki eru öll kurl komin til grafar í Íran.

Lalla verkstjóra fór Bjarni Ingvarsson. Gísli Rúnar Jónsson dró upp kostulega mynd af Már forstjóra, þar sem bæðu nutu sín skopskyn Gísla og hæfileikar hans sem leikara. Hér var reyndar um að ræða ágæta skopstælingu á dæmigerðum fulltrúa iðnrekenda, sem ber aukningu framleiðslunnar mjög fyrir brjósti og hvernig nýta megi vinnuaflið á sem hagkvæmastan hátt, jafnframt því sem hann talar fjálglega um samstöðu allra stétta.

Í lok frumsýningarinnar var leikendum klappað innilega lof í lófa, svo og höfundi, leikstjóra og öðrum aðstandendum.

-/SJÓ

# Popp og tískuföt

**Dufþakur**

Ritstjórinn hringir og spyr, hvort Dufþakur ætli ekki að skila grein í blaðið; hann sé hvort eð er búinn að lofa því að skrifa í annað hvert blað. Samviskan segir til sín og maður þorir ekki annað en jánka, þó maður hafi ekki minnstu hugmynd um um hvað skal skrifa. Og skilafresturinn er að verða útrunninn.

Þá er ekki annað en leita á náðir konunnar um efni í næsta pistil. "Skrifaðu um poppið," segir hún. "Eða bíla." Nú, nú. Poppið, eins og það er í dag, fer í taugarnar á manni og maður hefur ekkert vit á bílum. En auðvitað má skrifa um svona hluti, þó maður sé laglaus og þekki ekki nótur og án þess að vita nokkurn skapaðan hlut um einstakar tegundir bíla eða hve mörg hestöfl þeir eru. Gott og vel...hér kemur greinin:

Dægurlagatónlistin hefur löngum verið ríkur þáttur í lífi og hugmyndaheimi unglinga. Þetta þekkir maður náttúrlega sjálfur af eigin reynslu. Þegar þarf að hafa ofan af fyrir unglingunum á einhvern hátt er nærtækasta að spila poppmúsík og enn meiri poppmúsík. Verslunarmannahelgar, Rauðhettumót og aðrar slíkar hátíðir bera þess glöggt vitni. 17. júní í ár var líka gott dæmi um þetta. Í sparnaðarskyni ákváðu borgaryfirvöld, að sem allra minnst skyldi vera um skemmtanir og hátíðahöld þennan dag. Unglingunum átti helst að halda heima og til að þeim leiddist nú ekki einhver ósköp í faðmi fjölskyldunnar þótti tilhlýðilegt að hafa sýningu á vinsælum poppurum í sjónvarpinu í samtals tvær klukkustundir. En blessað gamla fólkið, sem ekkert hafði í miðbæinn að sækja þetta kvöld, varð að gjöra svo vel að gera sér þetta að góðu.

Þó manni þyki lítt koma til þeirrar dægurlagatónlistar, sem vinsælust er í dag, ekki síst þessarar diskótónlistar, þá er engin ástæða til að fjargviðrast yfir þetta áhugamál æskunnar í dag. Síst var maður betri sjálfur. En maður er kannski orðinn svona gamall - eða öllu heldur gamaldags.

En þrátt fyrir allt er þetta ekki bara saklaus skemmtun. Kapítalistinn veit nefnilega uppá hár, hvað hann syngur. Öll dægurlagatónlist er til þess að græða á. Vinsælar poppstjörnur skapa gull í vasa framleiðendanna. Og ekki nóg með að grætt sé á tónlistinni einni sér. Það þarf líka að skapa ákveðna tísku, í samræmi við þá tegund tónlistar, sem vinsælust er hverju sinni. Leðurjakkar og rokkbuxur voru vinsælar á tímum rokksins, gallabuxur á tímum blómadýrkunarinnar svonefndu - já, allt í einu voru gallabuxur orðnar rándýrar, enda búið að breyta þeim í tískuvöru. Og nú eru það víst níðþröngar svartar leðurbuxur og leðurjakkar í samræmi við grísaræðið.

Þetta er bara ekki saklaus skemmtun, þegar allt kemur til alls. Ef kapítalistarnir færa sér ekki í nyt það sem eftirsóknarverðast er í tónlist og fatnaði hverju sinni, þá einfaldlega búa þeir tískuna til.

Jæja, kæri ritstjóri. Þetta verður að nægja í bili. Hér slæ ég botninn í greinina...

P.S. Pistill um blikkbeljuna verður að bíða að sinni.

# "Vorkoma" í Kamputseu

Mikil var sú perla er rak á fjörur hins frjálsa, óháða íslenska ríkisútvarps frá sænska sjónvarpinu um daginn. Fréttamynd um ástandið í Kampútseu á stjórnartíma hinna ógeðslegu Rauðu Khmera. Er hægt að hugsa sér nikkuð betra til að ná fram hámarksáhrifum hjá íslendingum í eitt skipti fyrir öll? Svona mynd hlýtur náttúrulega að vera mjög áreiðanleg heimild það er talað af "handahófi" við fólk sem svíarnir hittu á leið sinni um landið og allir hljóta að sjá að við þessu er aðeins hægt að segja amen og halelúja. Eða hvað? Nei, bíðum hæg.

Ekki virðast allir á eitt sáttir um sannleiksgildi myndarinnar. Þorsteinn Helgason er "á dagskrá" í Þjóðviljanum 14/6 sl. Hann lýsir myndinni svo: "Sænskur sjónvarpsmaður fer um hin afmörkuðu svæði í Kampútseu sem víetnamski herinn hefur tangarhald á og innrásarliðið útvagar honum "fórnarlömb" til viðtals og útvegar túlk einnig. Sumir viðmælenda koma úr búðum víetnama."

Svo mörg voru þau orð. Maðurinn hlýtur bara að vera truflaður á geði. Hefur hann ekki hlustað á fréttaskýringar Gunnars Eyþórssonar eða lesið pistla Elínar Pálmadóttur sem fór til Tælands og sá Kampútseu? Samkvæmt henni voru Kampútseumenn jafnvel farnir að stunda mannát. Og þó ef maður gleypir ekki allt hrátt úr mynd þessari, byrjar maður á nokkru sem sjaldan gerist þegar verið er að láta sjónvarpið mata sig, maður fer að hugsa. Ef við lítum t.d. aðeins á hugsanir mínar meðan ég horfði á þessa mynd, þá voru þær á þessa leið:

Hvers vegna er eingöngu talað við borgarfólk en aldrei við sveitafólk?




Þorsteinn Helgason.

Þetta eru tveir þeirra sem tekið hafa þátt í umræðunum um ástand og þróun mála í Víetnam og Kampútseu. Myndirnar eru fengar úr Þjóðviljanum.

Hvaða svæði er farið um?
Hvaða fólk er talað við?
Hvernig var hægt að halda uppi harðri baráttu gegn Lon Nol og stjórn hans innan borgarmarka Pnom Penh?
Af hverju var ekki farið neitt út fyrir borgirnar nema þjóðvegina á milli þeirra?
Mín svör eru þessi:
Fólk það sem talað við var allt fólk sem fyrir byltinguna 1975 hafði lifað á gjafakorni frá Bandaríkjunum í borgunum. Við vitum að eftir byltingu var slíku ekki til að dreifa. Því var þetta fólk flutt frá borgunum. Í dag virðist þetta fólk vilja lifa á gjafakorni frá Sovétríkjunum.

Þau svæði sem farið var um eru eingöngu þau er víetnamar ráða yfir. Þau virðast vera minni hluti landsins. Furðulegt hve illa víetnömum að ráða niðurlög um hinnar illræmdu rauðu Khmera. Því samkvæmt öllu ættu þeir að vera svo hataðir af öllum að þeir ættu fyrir löngu að vera yfirunnir. En þeir virðast þó geta varist vel, þannig að þeir hljóta að vera sæmilega lið sterkir. En þeir terrorisera kannski ennþá til sveita. Því ekki getur það verið að sveitavargurinn styrki þá, enda hafa þeir myrt a.m.k. 1 einstakling úr hverri fjölskyldu í landinu.

Þá hljóta þeir annað hvort að vera gífurlega mannmargir eða eiga sjálfir mjög stórar fjölskyldur, annars hlytu þeir að va vera búnir að vera fyrir löngu.

Að lokum. Ef vorið er komið í Kampútseu, hvers vegna flýja þá svona margir núna? Og hvernig stendur á því að víetnamar eiga svona erfitt með að halda völdum?



Flóttamannastraumurinn frá Víetnam eykst dag frá degi. Myndin er frá Hong Kong.

Nicaragua:
Somosa styðst við USA
framhald af forsíðu

hún gerði s.l. haust. Í átökunum þá var ekki lögð megináhersla á að virkja fjöldann til baráttu með Sandinistahreyfingunni heldur aðallega á baráttu hreyfingarinnar sjálfrar. Nú horfir málið öðru vísi við og fólk tekur virkan þátt í baráttunni, á fjöldagrundvelli, skipulagt af Sandinistum.

Einræðisstjórn Somosa var vel viðbúin nýrri uppreisn eftir átökin á s.l. ári. Þjóðvarðlið hennar, 10.000 manns mætti nú skipulega og tvíeflt til leiks, búið vopnum af fullkomnustu gerð. Vopnabúnaðinn sækir Somosa að mestu frá Bandaríkjunum í gegn um Ísrael, svo ekki verði uppvíst um beinan stuðning USA við einræðisherrann. Somosaklíkan hefur einnig fengið beinan liðsstyrk frá nágrannaríkjunum Guatemala og El Salvador. Stjórnir þessara ríkja afneita þó þátttöku sinni.

Alþjóðagjaldeyrissjóðurinn illræmdi (IMF) á mikilla hagsmuna að gæta í Nicaragua og hann ætlar sér að tryggja Somosa völdin. Sjóður þessi er, ef svo má að orði komast, efnahagslegur framvörður vestrænnar (bandarískrar) heimsvaldastefnu. Vegna byltingarástandsins sem nú ríkir í Nicaragua eru lánveitingar sjóðsins til Somosa mun meiri en gerist og gengur um afskipti sjóðsins í öðrum löndum. Þessi lán gera fasistastjórninni það kleyft efnahagslega að standa undir stríðsrekstrinum. Þessi lán munu, ef Somosa heldur sessi, tryggja IMF enn fullkomnari stöðu til ítaka í stjórnun landsins og arðráns á þjóð þess. Rétt eins og eðli og tilgangur sjóðsins gerir ráð fyrir.

Sandinistahreyfingin og Somosastjórnin eru og verða ósættanlegir andstæðingar. Baráttan í landinu er tilraun verkalýðsstéttar og annarrar alþýðu manna til uppgjörs við borgarastéttina og áhrif erlendrar heimsvaldastefnu.

Báðir aðilar ætla sér að berjast til sigurs. Beri Sandinistahreyfingin sigur úr býtum táknar það skref í átt til friðar og frelsis fyrir hinn hrjáða fólksfjölda í Nicaragua.

Aftur á móti þýðir sigur fasistastjórnarinnar áframhaldandi kúgun á fólkinu og örbirgð þess. Sá sigur táknar aukið ósjálfstæði landsins gagnvart heimsvaldasinnum og hann kallar á áframhaldandi óaflátanlega baráttu fólksins og uppreisnir þess gegn valdhöfunum.



# Áskriftargjöld 1979

VENJULEG ÁSKRIFT : KR.5000.-
BARÁTTU ÁSKRIFT : KR.7000.-
TIL ÚTLANDA : KR.13000.-
TIL ÖRYRKJA OG ELLILÍFEYRISÞEGA : KR.500.-



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

**Stéttabaráttan**

Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
24. tbl. 8. árg. 19.6.1979



STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður
Ingi Andrésson.

# 'Á morgun er nýr dagur

## Blómarósir eftir Ólaf Hauk. frumsýnt í Lindarbæ

Alþýðuleikhúsið frumsýndi 14. júní nýtt íslenskt leikrit eftir Ólaf Hauk Símonarson, sem hlotið hefur nafnið Blómarósir. Leikstjóri er Þórhildur Þorleifsdóttir, leikmyndir gerir Þorbjörg Höskuldsdóttir, en hönnuður búninga er Valgerður Bergsdóttir. Þá hefur Ólafur Haukur jafnframt samið lög og texta við leikritið. Leikendur eru alls 12 og fara sumir þeirra með fleiri en eitt hlutverk.

Leikritið fjallar um sex ungar iðnverkakonur, sem allar vinna hjá Umbúðasmiðjunni h.f. Leikritið gerist yfir eina helgi eða nánar tiltekið frá föstudagsmorgni til mánudagskvölds. Lýst er persónulegum vandamálum þessara kvenna, kjörum þeirra og aðstöðu og aðbúnaði á vinnustað, heimilisaðstæðum og erfiðleikum í samskiptum við foreldrana. Einnig kynnumst við viðhorfum og hátterni forstjóra Umbúðasmiðjunnar, metorðagirnd hans og afstöðu til verkafólksins. Þá eru ótaldar tvær persónur, sem koma all nokkuð við sögu, en þær eru eldri kona, sem vinnur í verksmiðjunni og hefur alla sína tíð borið harm sinn í hljóði og kosið Sjálfstæðisflokkinn og Lalli verkstjóri, dæmigerður stéttasamvinnumaður, sem forstjórinn notfærir sér til að reka á eftir mannskapnum.

Sjónarmið ungu verkakvennanna eru ólík eins og gengur, svo og persónuleg vandamál þeirra og skapferli. Ein þeirra hugsar varla um annað en útlitið á sjálfri sér og lifir í draumaheimi uppstrílaðra kvikmyndastjarna, önnur er ´hörku kommi´ og mikil baráttumanneskja, sem ekki lætur sér allt fyrir brjósti brenna, sú þriðja bíður öll kvöld eftir elskhuganum, sem aldrei kemur, fjórða á stönduga foreldra, sem í tvígang hafa sent hana inná Klepp, fimmta er hlédræg og þögul sem gröfin og sú sjötta er að gefast uppá endalausri þrætu foreldra sinna.

Allt um það eru þetta ágætis vinkonur og það kemur í ljós, að þær eiga fleira sameiginlegt, en ætla hefði mátt í fyrstu. Það eru einkum atburðir á vinnustaðnum, sem leiða til þess að þær tengjast sterkari böndum. ´Komminn´ er rekinn úr vinnunni og sú gamla lendir í vinnuslysi, þegar hún er að vinna við tæki, sem fyrir löngu var búið að kvarta yfir, að væri í ólagi. Þá finna þær, að það sem máli skiptir er að standa saman.

Leikritinu lýkur á því, að baráttukonan segir eitthvað á þessa leið: "Það er ekki þriðjudagur á morgun. Á morgun er nýr dagur. Baráttudagur."

Það mun vera stefna Alþýðuleikhússins að sýna verk, sem innihalda þjóðfélagslega gagnrýni og vekja spurningar, sem varða afstöðu mannsins til þjóðfélagsins og gerð þess. Og vissulega hefur Alþýðuleikhúsið staðið fyrir sínu að þessu leiti, því þau leikrit, sem þetta leikfélag hefur sett upp, hafa að jafnaði verið kærkomið innlegg í þjóðfélagslega umræðu og - svo maður taki nú enn dýpra í árinni - baráttu verkalýðsins fyrir bættum kjörum og auknum réttindum.

Leikrit Ólafs Hauks Símonarsonar, Blómarósir, má svo sannarlega flokka undir þessa skilgreiningu. Við kynnumst áhugamálum og hversdagslegum vandamálum nokkurra iðnverkakvenna, sem án ef eiga sér hliðstæður í veruleikanum. Sumum rithöfundum hættir til að fyrirlíta skoðanir óbreyttra verkamanna, finnast þær vera lágkúrulegar, samanborið við sitt eigið menningarsnobberí og yfirburði á sviði menntunar, ellegar þá, að lýsa aðstöðu lítilmagnans á einkar tilfinningaríkan og væminn hátt. Ólafur Haukur fellur í hvoruga gryfjuna. Hann dregur upp raunsæja mynd af lífi óbreyttra verkakvenna, en leyfir sér jafnframt, þrátt fyrir allt, að vera bjartsýnn



Forstjórinn og verkstjóri hans haldast í hendur.

á framvindu mála í verkalýðsbaráttunni. Þrátt fyrir alvarlegan undirtón er leikritið bráðfyndið, einkum og sér í lagi þeir kaflar, er lýsa hátterni og skoðunum kapítalistans.

Ef grannt er skoðað, man maður varla eftir nokkru íslensku leikriti, sem lýsir hversdagslífi venjulegrar alþýðu á jafn raunsannan hátt. Því eiga Ólafur Haukur og Alþýðuleikhúsið mikið lof skilið og
fyrir framtakssemi sína og leikritið á ekkert skilið annað en frábæra aðsókn. Hér verður ekki farið út í þá sálma að vega og meta einstaka kosti eða galla þessa verks, nema hvað það er kannski ívið of langt, u.þ.b. þrjár klukkustundir, þó er erfitt að segja, hvar hefði mátt stytta eða fella brott.

Sýningin var í alla staði hin vandaðasta og tókst mjög vel; aldrei var maður var við, að leikari mismælti sig eða gleymdi rullunni, sem annars er víst ekki óalgengt á frumsýningu. Það var heldur ekki betur séð en leikstjórn og uppfærsla hafi tekist all vel.

Sama máli gegnir um þátt leikendanna; þeir stóðu sig allir með prýði. Með hlutverk ungu verkakvennanna fóru þær Guðrún Gísladóttir, Helga Thorberg, Edda Björgvinsdóttir, Sólveig Hauksdóttir, Kristín Kristjánsdóttir og Elísabet B. Þórisdóttir. Guðný Helgadóttir lék eldri verkakonuna og með hlutverk



Í kaffihléi. (Edda, Helga, Guðrún og Sólveig)